Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

19. tbl | Þriðjudagurinn 9. maí 1978 | verð kr. 100.-



# Er olíubannið öflug aðgerð?

1. maí, tilkynnti formaður Verkamannasambandsins Guðmundur J. Guðmundsson að tveggja vikna innflutningsbann yrði sett á olíu til landsins. Stjórnir tveggja verkalýðsfélaga hafa samþykkt þessa aðgerð, Dagsbrún í Reykjavík og Hörður í Hvalfirði. Ekki er vitað um að fleiri verkalýðsfélög hafi lýst yfir stuðningi, enda er verkalýðsforystan margklofin í afstöðu til aðgerða verkalýðshreyfingarinnar nú fyrir kosningar, og engir verkalýðsfélagafundir eru haldnir. En er innflutningsbannið öflug aðgerð? Bannið á að standa í tvær vikur, en nægar olíubirgðir eru til í landinu fram til loka júnímánaðar ef marka má ummæli forstjóra olíufélaganna. Það má því segja að bannið hefði einhvern annan tilgang en að styðja baráttuna fyrir því að atvinnurekendur borgi út óskerta samninga.

Útflutningsbannið byrjaði vel, en sú aðgerð var eyðilögð af þeim verkalýðsforingjum sem taka ábyrga afstöðu með eigendum atvinnufyrirtækjanna með því að gefa þeim botnlausar undanþágur til útflutnings ef hætta er á því að fyrirtækin stöðvist. Ef því banni hefði verið haldið til streitu án nokkurrar eftirgjafar, hefði samstaða hinna einstöku frystihúsaeigenda og annarra útflutningskapitalista brotnað skjótlega. Þeir hefðu aldrei staðið á því til lengdar að segja upp hundruðum verkamanna og sjómanna auk kvenna í frystihúsum nú um hávertíðina þegar gróðinn er sem mestur. Hinir sameiginlegu hagsmunir atvinnurekenda í VSÍ ná ekki fram að ganga þegar útflutningsauðmenn eru settir í algjört gróðabann hinir atvinnurekendurnir fá að græða áfram.

Við verðum því að segja hlutina eins og þeir eru, að tveggja vikna innflutningsbann á olíu, er aðeins tilraun verkalýðsforystunnar til þess að breiða yfir undanslįttinn og eftirgjafirnar í útflutningsbanninu og bjarga andlitinu á 1. maí. Aðgerðin er algjörlega tilgangslaus, ef hún á að þjarma að atvinnurekendum til að fá þá til að borga út samningana.

Verkalýðsforysta sem tekur ábyrga afstöðu með framleiðslu þjóðarinnar sem atvinnurekendur hirða allan arðinn af, er vissulega í klípu þessa dagana. Kosningar eru í nánd og markmið verkalýðsforingja er að komast í stjórnarstóla og embætti auðvaldsbúskaparins. Það er ein ástæðan fyrir öllum þessum lýðskrumsaðferðum í verkalýðsbaráttunni sem ekki eru nein vörn gegn árásum auðvaldsins og ríkisvalds þess á kjör okkar vinn-

Framhald á síðu 5

# Dagur Evrópu

Á degi Evrópu 5. maí var töluvert sagt frá svokölluðu Evrópuráði í fjölmiðlum. Ísland er aðili að ráðinu, og sátu fulltrúar þess árlegan fund ráðsins, nú 5. maí. Hún vekur sérstaka athygli, sú afstaða sem íslensku fulltrúarnir höfðu og hafa til frelsisbaráttu smáþjóða, því ekki er langt um liðið síðan danir slepptu tökum sínum hér. Við atkvæðagreiðslu ráðsins um fordæmingu á kúgun S-Afríkustjórnar á Namibíu, þar sem jafnframt var krafist tafarlauss sjálfstæðis Namibíu, sátu fulltrúar Íslands hjá. Þannig er hugur þeirra til frelsisbaráttu smáþjóða.

## DÓMSTÓLL EVRÓPURÁÐSINS

Hinn ærlegi postuli frelsis og varins lands, Þór Vilhjálmsson situr af Íslands hálfu á dómstól Evrópuráðsins. Því er líkt farið með þann dómstól eins og alþjóðadómstólinn að þar sitja afturhaldssömustu lögfræðingar og embættismenn hins deyjandi og rotnandi auðvaldsskipulags. Enda eru dómarnir eftir því, og skulum við nú taka nokkur dæmi því til sönnunar.

Kærur bárust til dómstólsins vegna pyntinga breta og N-Írskustjórnarinnar á N-Írlandi. Evrópudómstóllinn dæmdi það að ekki væri um pyntingar að ræða, þrátt fyrir margsönnuð dæmi um hrottalegar pyntingaraðferðir. Ein sú aðferð sem beitt er á þá sem grunaðir eru um að styðja IRA, er að fangelsa viðkomandi, binda svartan poka yfir höfuðið svo dögum skiptir og láta óbærileg hljóð og sírenuvæl glymja yfir fangann. Þetta taldi dómstóllinn og Þór Vilhjálmsson að væru ekki pyntingar, svo er nú farið með þeirra mannúð með alþýðufólki. Fangelsanir án dóms og laga á grunuðum félögum í IRA eru líka í lagi og í fullu samræmi við mannréttindi að áliti dómsins. Þess má geta að Amnesty International, alþjóðleg samtök til hjálpar pólitískum föngum, hefur fordæmt pyntingar breta á N-Írlandi.

Enskir útgefendur kærðu bann breskra dómstóla á útgáfu bókarinnar, „Rauða kverið fyrir skólanemendur" sem kom fyrst út í Danmörku og hefur m.a. verið prentuð á íslensku fyrir nokkrum árum. Dómstóllinn dæmdi sem svo að hvert land fyrir sig hefði fullt frelsi til að túlka lög sín um prentfrelsi (lesist, auðvaldið og dómstólar þess). Slíkur er Evrópudómstóllinn, enda sitja þar m.a. afturhaldssamir lögfræðingar og landsfræg mannvitsbrekka frá Íslandi.

## MANNRÉTTINDASÁTTMÁLI EVRÓPU

Íslendingar eru ein fárra þjóða í Evrópu sem ekki uppfyllir mannréttindasáttmála Evrópu, er snýr aðvinnuvernd öryrkja, barna og unglinga, og útivinnandi kvenna. Þegar sáttmálinn var samþykktur á Alþingi á síðasta ári, með þessum undantekningum, hreyfði enginn þingmaður andmælum. Verkamannasamband Íslands samþykkti á þingi sínu í des. í lok síðasta árs að skora á Alþingi að uppfylla öll skilyrði Mannréttindasáttmálans, en ekki er enn vitað til þess að málinu hafi verið hreyft þar.




# Að afstöðnum 1. maí

Þrjár kröfugöngur og þrír útifundir voru haldnir á 1. maí Ganga Fulltrúaráðsins og ganga Baráttueiningar og Rauðrar verkalýðseiningar voru álíka stórar, en töldu þó ýmsir þá síðarnefndu hafa vinninginn. Auglýst var að ganga Samfylkingar legði af stað frá Hlemmi kl. 13:00, en þá voru aðeins mættir rúmlega 20 manns og var henni því frestað þar til á eftir hinum. Var sú ganga sýnu minnst og sömuleiðis útifundur þeirra útifundur fulltrúaráðsins var stærstur, enda beið margt fólk í miðbænum til að horfa á göngurnar koma niður Laugaveginn. Þátttaka í aðgerðum Baráttueiningar og Rauðrar verkalýðseiningar var góð, eða um 1000 manns. Megum við vera ánægð með árangur aðgerðanna, því þar náðist samstaða undir mikilvægustu kröfunum, gegn auðvaldi og gegn stéttasamvinnu. Mun verða fjallað nánar um árangurinn af samfylkingunni á 1. maí í næstu tölublöðum Stéttabaráttunnar.

**FÉLAGAR – STUÐNINGSMENN – KFÍ-M-L**

**Næstkomandi laugardag, 13. maí, verður Kommúnistaflokkurinn með fund í prentarasalnum, Hverfisgötu 21, kl. 14.00, til að skipuleggja kosningaundirbúninginn til alþingiskosninganna.**

**Þar munu frambjóðendur Kommúnistaflokksins mæta og kynna kosningagrundvöllinn.**

**FÉLAGAR – STUÐNINGSMENN – FJÖLMENNUM.**

LEIÐARI

# Sendum málsvara verkalýðsins inn á þing

Nú hefur Kommúnistaflokkur Íslands ákveðið hverjir skipi framboðslista flokksins í Reykjavíkurkjördæmi við næstu Alþingiskosningar. Í efsta sæti er Gunnar Andrésson rafvirki, sem er formaður Kommúnistaflokksins, í öðru sæti er Sigurður Jón Ólafsson iðnverkamaður og í þriðja sæti er Benedikt Kristjánsson verkamaður. Þetta eru þrjú efstu sætin en listinn í heild verður birtur í næsta tölublaði Stéttabaráttunnar.

Kommúnistaflokkur Íslands er ungur flokkur, hann var stofnaður fyrir rétt rúmlega tveimur árum af fólki, sem vill berjast fyrir framtíðarhagsmunum verkalýðsstéttarinnar og annarrar vinnandi alþýðu. Auk útgáfu Stéttabaráttunnar, starfa félagar Kommúnistaflokksins innan verkalýðsfélaga og annarra fjöldasamtaka alþýðufólks, og beita sér gegn undanslætti í baráttunni gegn auðvaldinu, sem ávallt beitir ríkisvaldi sínu til árása á lýðréttindi og kjör vinnandi fólks. Einu gildir hvaða ríkisstjórn er við völd, þær þjóna ávallt framleiðsluskipulagi auðvaldsins, bankakerfi og stjórnum fyrirtækjanna sem eru í einkaeign auðmanna. Verkalýðsstéttinni og annarri vinnandi alþýðu er ekki gefinn kostur á því við Alþingiskosningar að hrófla við auðmönnum þrátt fyrir að svokallaðir vinstriflokkar sitji í ríkisstjórn. Síðasta vinstristjórn, eins og reyndar allar þær fyrri eru skýr dæmi um þessa staðreynd, aldrei var gróði auðmanna af vinnu fjöldans meiri í atvinnufyrirtækjum, verslun, húsaleiguokri og hverskonar braski. En hversvegna býður þá Kommúnistaflokkur Íslands fram til Alþingis?

Verkalýðsstéttin verður að eignast málsvara á Alþingi, sem stutt getur baráttu vinnandi fólks fyrir auknum lýðréttindum og bættari kjörum í núverandi þjóðskipulagi. Alþingi götunnar eða barátta fjöldans er eina aflið sem megnar að koma á þjóðfélagslegu réttlæti þegar fram líða stundir, undir forystu marxísks-lenínísks verkalýðsflokks er byggður er upp á lýðræðislegan hátt. Því er það mikilvægt að allir vinnandi menn og konur sem vilja taka þátt í að skapa þjóðfélagslegt réttlæti styðji Kommúnistaflokk Íslands við næstu Alþingiskosningar. Kommúnistaflokkurinn er eina aflið sem selur ekki hagsmuni vinnandi fólks fyrir bitlinga, auð og áhrif eins og forystumenn annarra vinstriflokka hafa ævinlega gert þegar fjöldinn hefur treyst þeim.

# Um lýðræðisást verkalýðsforystunnar

Framhald af baksíðu

nýttur nægjanlega. Ég leyfi mér að fullyrða að orð Guðmundar J. eru ekkert annað en lýðskrum til að slá ryki í augu þeirra sem ekki þekkja til málanna í hans félagi Dagsbrún. Þar hefur ekki verið haldinn almennur félagsfundur síðan í nóvember á síðasta ári, aðalfundur sem halda á samkvæmt lögum Dagsbrúnar ekki síðar en 15. febrúar hefur ekki enn séð dagsins ljós. Í byrjun desember á síðasta ári var samþykkt að forystumenn verkalýðsfélaganna skyldu halda fundi með verkamönnum á vinnustöðum, enginn slíkur fundur á vinnustað hefur verið haldinn á félagssvæði Dagsbrúnar síðan samþykktin var gerð á þingi Verkamannasambands Íslands. Að maður tali nú ekki um að Dagsbrúnar stjórnin berst gegn þeim verkamönnum sem vilja koma fram þeim stefnumálum sem Guðmundur J. er að skruma með fyrir framan alþjóð.

En Guðmundur J. verður ævinlega dæmdur af verkum sínum en ekki því sem hann segir og lofar, það hefur reynslan ævinlega sannað.

Eðvarð Sigurðsson hafði það að segja um framtíð verkalýðshreyfingarinnar að hún yrði að efla ítök sín alls staðar í þjóðlífinu, embættum, stofnunum og víðar. Reyndar hafði varaformaður hans orðað þetta betur fyrir hann fyrr í þættinum, þegar hann sagði að verkalýðshreyfingin (hann á við, þeir og aðrir uppkeyptir verkalýðsforingjar) yrði að eflast í ríkisvaldinu, alþingi og víðar. Ekki var til að tala um hjá þessum verkalýðsforingjum sem merkilegt nokk telja sig vera sósíalista að hrófla við einkaeigninni á atvinnutækjunum og arðráni atvinnurekenda á verkalýðnum með það að markmiði að koma á þjóðskipulagi verkalýðsstéttarinnar, sósíalískri sameigna: framleiðslu þar sem arðrán manns á manni þekkist ekki. Það er ekki von til annars en að verkalýðsstéttin sé sundruð þegar aðrir eins þjónar ríkjandi þjóðskipulags sitja í forystu verkalýðshreyfingarinnar. Verkalýðsstéttin verður ævinlega sundruð ef ekki er tekin upp barátta gegn svikurunum, fyrir kröfum í hagsmunabaráttunni sem eru sameinandi fyrir fjöldann (eins og krafan um lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku) og pólitískum kröfum sem sameina verkalýðinn til fjöldabaráttu til að afnema núverandi arðránsþjóðfélag.

Hinn makalausi sjónvarpsþáttur stéttasamvinnunnar sem sýndur var á 1. maí er verkalýðshreyfingunni til ævarandi skammar, en þó var það gott að þessir svokölluðu talsmenn verkalýðsins afhjúpuðu sjálfir þjónslund og stéttasamvinnu sína við auðvaldið og ríkisvald þess. Þátturinn endaði eins og hann byrjaði á velkunnum ættjarðarsöng, í stað Internationalsins á þessum alþjóðlega baráttudegi verkalýðsstéttarinnar, enda hefur þjóðarrembingurinn ævinlega verið helsta einkenni hentistefnumanna innan raða verkalýðsins.




FRÁ STYKKISHÓLMI:

Útflutningsbann það er forysta Verkamannasambandsins boðaði hefur reynst algert vindhögg. Útflutningsbann er öflug aðgerð ef rétt er að henni staðið. En reynslan hefur sýnt okkur að forysta V.S, sem annara verkalýðssambanda er ekki fær til að leiða baráttuna. Atvinnurekendur hafa hótað verkbanni við aðgerðum Verkamannasambandsins, og viðbrögð forystunnar eru þau að veita undanþágur í allar áttir. Það er til lítils fyrir Guðmund J Guðmundsson að koma fram í fjölmiðlum og lýsa því frammi fyrir alþjóð að þeir hafi fengið mörg hundruð beiðnir um undanþágur, en ekki veitt nema örfáar.

Í Stykkishólmi t.d hafa þeir veitt undanþágur, þrátt fyrir að þetta þorp byggi engan vegin afkomu sína á sjávarútvegi. Fyrir stuttu síðan skeði það í umræddu þorpi að fólki því sem vann við sjávarútveg var sagt upp störfum, og var ástæðan sú, að öll frystihólf væru að fyllast. Hvað hafði þetta í för með sér? Lamaði þetta athafnalífið í þorpinu? NEI alls ekki. Lang stærsti hluti þeirra sem vinna við sjávarútveg í Stykkishólmi eru útivinnandi húsmæður eins og það er kallað í fjölmiðlum borgaranna. Hingað til hafa eigendur frysti og fiskverkunarhúsa í Hólminum rekið þessar konur heim þegar þeim sýnist. T.d. í fyrra vor var nokkrum tugum verkakvenna sagt upp störfum í byrjun maí, á þeirri forsendu (ef forsenda getur kallast) að allt væri komið í hönk. En jafnframt voru þær beðnar að vera tilbúnar hvenær sem er því það gæti verið að á þeim þyrfti að halda. Það

Framhald a síðu 5




## Keflavíkurganga herstöðvaandstæðinga verður 10. júní

**FÉLAGAR — FJÖLMENNUM.**

# Opið bréf til félaga EIK ml í Dagsbrún



Á jafnréttisgrundvelli.

Endurskoðunarstefnan situr föstum sessi innan verkalýðsfélaganna og þá sérstaklega í verkamannafélaginu Dagsbrún. Þó er það eina verkalýðsfélagið sem barátta marxista-leninista í bandalagi við aðra verkamenn hefur hafist svo nokkru nemi. Baráttuhópur Dagsbrúnarmanna hefur gefið út blað nú um þriggja ára skeið sem dreift er til verkamanna, fjölmargar ályktanir hafa verið samþykktar sem stjórnin hefur neitað að framfylgja enda stríða þær gegn vilja endurskoðunarsinna. Við viljum eindregið hvetja Dagsbrúnar verkamenn í Eik-ml til að mynda baráttueiningu við félaga KFÍ-ml í baráttunni við endurskoðunarstefnuna innan Dagsbrúnar. Meðan við störfum sundraðir er það auðvaldinu og snötum þeirra innan verkalýðshreyfingarinnar einum til góðs.

Ef undirtektir ykkar eru jákvæðar óskum við eftir svari í blaði ykkar, sem fyrsta skrefi að samstarfinu.

Félagar KFÍ-ml í Dagsbrún

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

- Miðstjorn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl. 15:30 - 18:30.
- Hellisandur: Sigfus Almarsson Hellisbraut 10.
- Stykkishólmur: Gísli Hjaltason P. O. Box 63.
- Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallagötu 40c, Keflavík.
- Akureyri: Jón Atli Jatvarðsson, Skarðshlíð 30.
- Neskaupsstaður: Messíana Tómasdóttir, Þiljuvöllum 38
- Hornafjörður: Skúlf Waldorff, Silfurbraut 2.
- Vestmannaeyjar: Helga Jónsdóttir, Brekastíg 24 b 900 Vestmannaeyjum.
- Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Reykjavíkurvegi 24.
- Svíþjóð: Kristján L. Guðlaugsson, Kämnärsvägen 11N:220, 222 46 LUND. Hrólfur B. Ágústsson Uppstigen 139-31, 421 80 GÖTEBORG.



# Ávörp á 1. maí



## Sigurðar Jóns Ólafssonar:

Á 1. maí flutti Sigurður Jón Ólafsson iðnverkamaður Straumsvík eftirfarandi ræðu, á baráttufundi Kommúnistaflokks Íslands í Þjóðleikhúskjallaranum. Ræðan er birt hér í heild.

Góðir félagar.

Það vinnst enginn sigur án baráttu og samstöðu á grundvelli hagsmuna verkalýðsstéttarinnar. Enginn, sem vill telja sig verkalýðssinna getur afneitað þessari staðreynd. En orðin ein eða yfirborðslegar játningar segja ekkert um vilja mannanna. Það eru verkin sem tala. Og þegar það kemur í ljós, að fögur fyrirheit eru svikin æ ofan í æ, er varla hægt að búast við nokkrum árangri.

Einmitt þessu höfum við fengið að kynnast af vinnubrögðum verkalýðsforystunnar nú undanfarið og þá ekki síst af forkólfum Alþýðusambandsins. Þegar ríkisvaldið kom á hinum illræmdu kjararánslögum í febrúar, sem ekki aðeins fólu í sér kauplækkun heldur líka árás á frjálsan samningsrétt verkalýðshreyfingarinnar, mótmælti verkalýðsforystan og hótaði hörðustu mótaðgerðum til þess að fá þessi lög numin úr gildi. Og hverjar urðu efndirnar? Jú, það var hvatt til tveggja daga allsherjarvinnustöðvunar, sem í raun varð ekkert annað en sýndarleikur þar sem engar aðrar aðgerðir fylgdu á eftir í hálfan annan mánuð. Nú stendur yfir útflutningsbann, sem aðildarfélög Verkamannasambandsins eru aðilar að, en hvort sú baráttuaðferð sé árangursrík er allsendis óvíst

Það sem skiptir máli í þessu sambandi er, að verkalýðsforystan hefur svikið þau loforð sín, að gripið yrði til hinna hörðustu gagnaðgerða. Ýmsar baráttuleiðir koma vissulega til greina, en skæruverkföll hafa löngum verið beittasta vopnið í verkalýðsbaráttunni. Þessu vopni hefur ekki verið beitt.

Við getum í þessu sambandi lært af reynslu fyrri ára og kemur þá helst í hug árið 1942. Strax í upphafi þessa árs boðuðu verkalýðsfélögin allsherjarverkfall til að knýja fram kauphækkanir. Ríkisvaldið greip þá til lagabókstafarins og lét banna öll verkföll þetta árið og ennfremur voru lögfestir þágildandi kjarasamningar. Verkalýðsfélögin aflýstu að vísu verkfallinu, en hér var einungis um formsatriði að ræða til að komast hjá sektum og að sjóðir þeirra yrðu tæmdir. Verkamenn mættu ekki til vinnu og þetta allsherjarverkfall stóð í mánuð. Í kjölfar þess fylgdu svo skæruverkföll á einstaka vinnustöðum. Um síðir varð ríkisvaldið að gefast upp fyrir kröftugum mótmælaaðgerðum verkalýðsstéttarinnar; lögin voru numin úr gildi og samið var um verulega kauphækkun. Þessar verkfallsaðgerðir urðu líka ríkisstjórninni að falli.

Þetta dæmi sýnir okkur, að með einarðri baráttu og algerri samstöðu er hægt að knýja ríkisvaldið til uppgjafar.

Nú myndi eflaust einhver spyrja sem svo, hvort frekari grundvöllur hafi verið fyrir harðari gagnaðgerðum, þegar ekki tókst alger samstaða í allsherjarverkfallinu 1. og 2. mars s.l. Að nokkru leyti verður að svara þessari spurningu játandi. En hver er þá orsök þess, að ekki tókst betur til í tveggja daga verkfallinu en á horfðist? Ég hygg, að orsakir þess megi leita í skortinum á lýðræði innan verkalýðshreyfingarinnar.





Frá deild Rauðsokka í göngu Baráttueiningar og Rauðrar verkalýðseiningar á 1. maí.

Verkalýðs forkólfarnir hafa tekið sér hálfgert einræðisvald og það er nær ekkert samband á milli forystunnar og hins almenna launþega. Málin eru rædd bak við luktar dyr og ákvarðanir teknar án nokkurs samráðs við meðlimi verkalýðsfélaganna. Verkalýðsforystan er líka harla deig við að hvetja fólk til baráttu. Þegar svo er málum háttað í verkalýðshreyfingunni er varla hægt að búast við miklum árángri.

Það sem er einkennandi fyrir vinnubrögð forystumanna í verkalýðshreyfingunni og raunar algjört grundvallaratriði í störfum þeirra er stéttasamvinnustefnan. Þessi stefna birtist í því, að þeir taka ábyrga afstöðu til stöðu atvinnuveganna og vilja gjarnan hagræða hlutunum þannig að það komi báðum aðilum til góða eins og þeir segja. Kaupkröfur eru gjarnan miðaðar við þjóðartekjur eða spá þjóðhagsstofnunarinnar. Þar að auki halda forystumenn verkalýðshreyfingarinnar mjög á lofti kökukenningunni svonefndu. Hún felst í því, að ef einn hópur verkalýðsins fær stóran bita af kökunni verður sá næsti að fá minna og öfugt. Þeir líta algjörlega fram hjá þeirri staðreynd, að grundvöllur auðvaldsþjóðfélagsins er arðrán þeirra sem eiga framleiðslutækin, á þeim sem skapa verðmætin í þjóðfélaginu. Margir forystumenn verkalýðshreyfingarinnar hafa líka þegið ýmsa bittlinga af ríki og bæ. Þeir eiga sæti í hinum ýmsu nefndum og ráðum, eru alþingismenn og sumir þeirra hafa jafnvel látið fara notalega um sig í ráðherrastólunum. Þar af leiðir að laun þessara manna eru miklum mun betri en þeirra, sem þeir semja fyrir.

Afstöðuu þessara forystumanna verkalýðshreyfingarinnar, sem á annað borð eru komnir á jötu hjá ríkisvaldinu verður ekki breytt, þó sumir þeirra hafi verið róttækir í eina tíð. Það verður að vega að rótum meinsins. Það verður að berjast gegn stéttasamvinnustefnu verkalýðsforystunnar. Það verður að endurreisa stéttarfélögin sem raunveruleg baráttutæki til þess að einhvers árangurs megi vænta í hagsmunabaráttunni. Þetta verður ekki gert nema á grundvelli hagsmuna verkalýðsins, á grundvelli stéttabaráttunnar. Þetta er löng og erfið barátta og hún er rétt að hefjast. Það má segja að einna helst örli á henni innan Verkamannafélagsins Dagsbrúnar, en eins og kunnugt er gerði andstöðuliðið þar tilraun til að bjóða fram gegn stjórn félagsins í byrjun þessa árs. Og það sýnir fremur styrkleika en veikleika þessarar andstöðu, að forysta Dagsbrúnar skyldi grípa til þess örþrifaráðs að dæma mótframboðið ólöglegt á mjög hæpnum forsendum.

Til að geta framkvæmt þetta mikilvæga verkefni verðum við að líta á sérhvern vinnustað sem baráttuvettvang fyrir skoðanir okkar og grundvöll

Framhald á síðu 5

## Benedikts Kristjánssonar:

Á 1. maí flutti Benedikt Kristjánsson verkamaður í Dagsbrún eftirfarandi ræðu, á útifundi Baráttueiningar og Rauðrar verkalýðseiningar við gamla Miðbæjarskólan. Ræðan er birt hér í heild sinni.

Félagar.

Í dag á alþjóðlegum baráttudegi verkalýðsins 1. maí beinum við spjótum okkar gegn árásum auðvaldsins á kjörin og stéttasamvinnu verkalýðsforingja við auðvaldið og þjóðfélagskerfi þess. Sífellt ósvífnari árásir á kjör og frjálsan samningsrétt verkalýðshreyfingarinnar eru fyrirboði þeirrar efnahagskreppu sem íslenska auðvaldið siglir nú hraðbyri í. Því er það aldrei brýnna að verkalýðshreyfingin standi sameinuð á grundvelli stéttabaráttu gegn borgarastéttinni, fyrir brýnustu hagsmunum sínum og vel að merkja eins og sósíalistum er hætt við að gleyma, varanlegri lausn á vandamálum okkar, baráttuna fyrir afnám auðvaldsskipulagsins og uppbygging sósíalísks þjóðskipulags. En innan verkalýðshreyfingarinnar er forysta hennar Þrándur í götu þessara markmiða. Auðvaldsöflin hafa á ótal margan hátt skapað verkalýðsforystunni langtum betri lífskjör en verkamenn eiga að venjast, til þess að sætta hana við það arðránsþjóðfélag sem við búum í. Það er meginástæðan fyrir því að verkalýðsstéttin er svo sundruð sem raun ber vitni. Verkamenn á vinnustöðum fá engu ráðið um þær kjarakröfur sem settar eru á oddinn af forystunni, eða þær baráttuaðferðir sem notaðar eru. Félagsfundir verkalýðsfélaga eru örsjaldan á ári, enda treysta forystumennirnir ekki á ákvarðanir okkar verkafólksins. Allt er á eina bókina lært, fjöldabaráttunni skal haldið niðri, miðstýring og fámennisvald verkalýðsforystunnar skal aukið enda er svo komið að skipulag hreyfingarinnar riðar.

Innan verkalýðsfélaganna hafa verkamenn í sífellt auknara mæli tekið upp baráttu gegn sundrungarstefnu uppkeyptu verkalýðsforystunnar, og haldið á lofti þeirri kröfu sem verkalýðsstéttinni er mikilvægust í hagsmunabaráttunni, 8 tíma vinnudag og lífvænleg laun. Þetta er sú krafa sem er sameinandi fyrir stéttina, enda berst afturhaldssöm verkalýðsforysta gegn henni með klóm og kjafti. Minnast má þess þegar verkamenn í Dagsbrún reyndu að fá kröfuna um 150 þús. króna lágmarkslaun samþykkta á félagsfundi fyrir síðustu samningagerð. Þegar sýnt þótti að sú krafa yrði samþykkt, beitti verkalýðsforystan ólýðræðislegum aðferðum til að hindra framgang kröfunnar. Svo er einnig um allar þær tillögur verkamanna sem miða að því að auka stéttarþroska verkafólks, og samstöðu gegn auðvaldinu. Það er því vel ljóst að ef árangur á að nást í baráttu okkar fyrir sameiningu stéttarinnar eftir leið stéttabaráttunnar gegn auðvaldinu, verður við að taka upp baráttu gegn þeim verkalýðsforingjum sem eru fulltrúar sátta og stéttasamvinnu við atvinnurekendur og ríkisvald þeirra. Tilraun 200 verkamanna í Dagsbrún til að bjóða fram gegn núverandi stjórn félagsins í vetur þjónaði þessu markmiði, enda var hún kæfð af fulltrúum stærstu stjórnmálaflokkanna sem stjórna félaginu, með vægast sagt ólýðræðislegum aðferðum. Við töpuðum orustu, en við vinnum stríðið gegn þeim verkalýðsforingjum sem vilja frið og sættir við auðmenn og þjóðskipulag þeirra, barátta verkalýðsins gegn auðvaldinu verður aldrei kæfð, stefna stéttabaráttunnar gegn borgarastéttinni mun að lokum sigra. Kommúnistar vilja sameina hinn vinnandi fjölda í volduga samfylkingu gegn kjaraskerðingum auðvaldsins, virkja fjöldann eftir leiðum fjöldabaráttunnar. Þannig vinnum við bug á þeirri sundrungu sem nú er innan verkalýðsstéttarinnar og byggjum verkalýðsfélögin upp sem baráttutæki í réttinda og kjarabaráttu okkar.

En það eru fleiri mál sem eru verkalýðsstéttinni brýn. Baráttan gegn stríðsundirbúningi risaveldanna tveggja Bandaríkjanna og Sovétríkjanna skiptir alþýðu þessa lands miklu máli og sérstaklega þar sem Ísland er aðili að annarri hernaðarblökkinni. Við búum við amerískan her og Ísland er í Nato, því verðum við að berjast gegn, til þess að Ísland geti skipað sér á bekk með þeim þjóðum sem fordæma styrjaldir heimsvaldasinna. Við verðum einnig að gera okkur skýra grein

Framhald á síðu 4



# Ávörp á 1. maí



## Guðrúnar Helgadóttur:

Félagar!

Í dag 1. maí 1978 stöndum við frammi fyrir því að höfuðandstæðingi okkar, auðvaldinu, hefur tekist að halda uppi heiftarlegum árásum á lífskjör okkar, án þess að við höfum getað rönd við reist.

Ef við lítum aftur í tímann til Borðeyrarverkfalla og Nóvudeilna þess tíma þegar íslensk ur verkalýður var að berjast fyrir rétti sínum til baráttu, réttinum til að eiga með sér samtök, þá er ekki laust við að okkur bregði í brún. Því hvert er afsprengi þessarar hörðu baráttu? Jú, það höfum við fyrir augunum í dag: Mikið en máttlaust bákn sem alls ekki megnar að verja hagsmuni alþýðunnar. Þannig stendur hún þá í dag, vopn verkalýðsins, verkalýðshreyfingin.

En hvernig stendur á því að þetta bitra vopn er orðið að bitlausri breddu? Það verður skiljanlegra ef við lítum sögu verkalýðshreyfingarinnar og þeirra pólitísku flokka sem einu sinni gátu með réttu kennt sig við alþýðu. Saga þessara afla er hnignunarsaga. Frá því að standa í brjósti fylkingar í fjöldabaráttu sem byggði á virkni og frumkvæði verkafólks, liggur leið þessara afla í valda- og áhrifastöður, þar sem eiginhagsmunir og hagsmunir verkafólks fara ekki lengur saman. Hinir svokölluðu verkalýðsflokkar hafa valið leið stéttasamvinnu og þingræðisbrölts og þannig komist í æ meiri kærleika við íhaldið og auðvaldið. Í krafti fornrar frægðar hefur þeim tekist að leggja verkalýðshreyfinguna undir flokkspólitíska valdastreitu og að nota baráttu verkafólks sér til framdráttar í hráskinnsleik borgaralega þingræðisins.

Forystan hefur algerlega og meðvitað vanrækt það hlutverk sitt að efla frumkvæði fjöldans og auka stéttarvitund og baráttuvilja verkafólks. Það er henni ekki í hag, því að meðvitað og baráttufúst verkafólk gæti átt það til að ryðja óhæfri forystu úr vegi og hvað er þá orðið flokkshagsmunina, á hverju byggist þá þingsætið, sætið í stjórn lífeyrissjóðsins og í bankaráðinu? Því reynir hún að drepa niður allt sjálfstætt framtak verkafólks í baráttunni af ótta við að það muni ógna eiginhagsmunum henar. Allri ákvarðanatekt er samviskusamlega haldið innan forystuliðsins og ekki er einu sinni fyrir því haft að halda félagsfundi nema þegar þarf að samþykkja eitthvað, svona formsins vegna.

Sá hópur sem hvað verst hefur orðið fyrir barðinu á duglausri og svikullri forystu eru verkakonur. Mörg verkakvennafélög hafa staðið sig illa í baráttunni og forysta þeirra hefur sýnt sig í því að vera gersamlega óhæf. Þetta þýðir þó ekki að konur séu verri baráttumenn en karlar. En kúgunin á þeim er tvöfalt meiri, þær vinna tvöfaldan vinnudag, annars vegar á hinum almenna vinnumarkaði og hins vegar á heimilinu, við að þjóna manni og börnum. Þær hafa því lítinn tíma til, og oft litla reynslu af félagsstörfum. Af þessum ástæðum er ljóst að það þarf meiri hvatningu og meira átak til að verkakonur helli sér út í baráttuna. Það er meira en bara að segja það að stunda félagsstörf með húsverkin hangandi yfir sér eins og fallöxi. Úr þessu verður ekki bætt nema með samstilltu átaki verkafólks, verkamenn verða að styðja baráttu verkakvenna, þó svo að það þýði að þeirra eiginkonur fari á fund, í stað þess að vaska upp og koma krökkunum í rúmið.

En undansláttur og stéttasamvinna hefur unnið verkalýðnum ómælt tjón. Meðal annars hafa þessar stefnur leitt til þess að verkafólk hefur ekki gætt sín sem skyldi fyrir borgaralegum áróðri og því eru hugmyndir borgarastéttarinnar alltof rótgrónar meðal þess. Þetta á ekki hvað síst við um afstöðuna til kvenfrelsisbaráttu. Það er enn langt í land með að það þyki sjálfsagt og eðlilegt að konur taki upp baráttu gegn kúguninni. Við þurfum því ekki að búast við öðru en langri og harðri baráttu á tvennum vígstöðvum. Í fyrsta lagi gegn höfuðandstæðingnum auðvaldinu og handbendum þess og í öðru lagi, gegn þeim röngu hugmyndum sem herja á marga félaga okkar.

Félagar!

Ástandið er löngu orðið óbærilegt og við svo búið má ekki lengur standa. Sú stund er löngu runnin upp að við konurnar verðum að rétta úr kútnum og taka okkur tíma og rétt til að berjast fyrir okkar sjálfsögðu mannréttindum og fyrir því að verkalýðsfélögin verði baráttutæki í höndum okkar á ný.

Við vitum að kúgunin á konum er einn af hornsteinum auðvaldsþjóðfélagsins. Því er baráttan fyrir jafnrétti kynjanna órjúfanlega samofin okkar löngu og hörðu baráttu fyrir réttlátu þjóðfélagi sósíalismans. Við verðum að ganga óhikað til baráttunnar og þá munum við sjá sigurinn að lokum. Verkamenn og verkakonur, tökum höndum saman: STÉTT GEGN STÉTT!




Sönghópur úr kór Alþýðumenningar skemmti á innifundi Baráttueiningar í Þjóðleikhúskjallaranum á 1. maí.

## Rakelar H. Pétursdóttur:

1. maí alþjóðlegur baráttudagur verkalýðsins var haldinn í Stykkishólmi, eins og víðast hvar annarsstaðar. Undanfarin ár hafði ríkt sú hefð að fá þekkta verkalýðspáfa að sunnan til að halda ræðu dagsins. En í ár brá svo við að verkakona úr Hólminum hélt ræðuna. Fundurinn var haldinn í Félagsheimili Stykkishólms og var hann ágætlega sóttur. Greinilegt er að verkalýðsforystunni er það mikið kappsmál að gera 1. maí að einhverskonar hátíðisdegi, þar sem verkafólk á að koma saman til að hlusta á hversu "ágætlega" forystan hefur staðið sig í að berjast fyrir bættum kjörum verkalýðsins.

Mesta athygli fundarmanna vakti ræða Rakelar H. Pétursdóttur félaga í Kommúnistaflokki Íslands m-l.

Í upphafi ræðu sinnar fór hún nokkrum orðum um hvenær fyrsti maí var fyrst haldinn hér á landi og hvernig hann fór fram. Síðan sagði hún m.a. "..Á þeim 55. árum sem liðin eru frá því að 1. maí var fyrst haldinn hér á landi, hafa skipst á skin og skúrir innan verkalýðshreyfingarinnar. Í dag stöndum við frammi fyrir því ástandi að hver árásin á fætur annari er gerð á kjör og hagi alþýðunnar. Í því þjóðfélagi sem við lifum í ríkir algert stjórnleysi í framleiðslunni, verðbólgan eykst dag frá degi, en kaupmáttur launa minnkar. Er það kannski verðbólguvaldurinn? NEI, orsakanna er að leita allt annars staðar m.a. er þeirra að leita í okkar röðum, þ.a.s. þeirri tilhneigingu verkalýðsforystunnar að slá af sjálfsögðum kröfum hreyfingarinnar. Eins og kröfunni um lífvænleg laun fyrir 40. stunda vinnuviku. Verkakonur og karlar verða að vinna myrkrana á milli til að hafa sig og sína. Það er lífsnauðsyn verkalýðnum, vegna kjara-félagslegra og heilbrigðissjónarmiða að geta framfleytt sér af dagvinnunni einni saman. Þetta er þannig einnig krafa um mannréttindi verkalýðnum til handa, réttinn til hvíldar, réttinn til samvista við fjölskyldu og réttinn til baráttu.

Þessvegna verðum við að fylkja okkur um þessa kröfu. Barátta verkalýðsins hefur hingað til verið varnarbarátta, en nú verðum við að snúa vörn í sókn. Til þess að það geti orðið í raun verðum við að gera verkalýðsfélögin að baráttutækjum. Við verðum að berjast gegn aukinni miðstýringu og undanslátttarstefnu forystunnar, og færa samnings réttinn í hendur hinna einstöku verkalýðsfélaga. Þannig eykst lýðræðið í verkalýðshreyfingunni og verkalýðsfélögin verða virkari. Nærtækasta dæmið um undanslátttarstefnuna er [illegible]tflutningsbannið. Í sjálfu sér [illegible] útflutningsbann öflug[illegible]erð, en þegar undanþágu[illegible]fust missti það gildi s[illegible] Ein af aðal ástæðunum [illegible]ir undanþágunum er pólitísk staða verkalýðsforkólfanna. Það má ekki fórna kjara og réttindabaráttunni á altari pólitískra hagsmuna. Hvar sem við stöndum í pólitíkinni höfum við sameiginlegra hagsmuna að gæta í kjarabaráttunni. Sjómenn, bændur verkakonur og karlar. Eina leiðin til sigurs er samstaða allrar vinnandi alþýðu.

KJARASAMNINGANA Í GILDI.

SAMSTAÐAN LENGI LIFI.

GERUM VERKALÝÐSFÉLÖGIN AÐ BARÁTTUTÆKJUM

## Ávarp Benedikts Kristjánssonar:

Framhald af síðu 3

fyrir því að Sovétríkin eru í dag gráðugt heimsvaldaríki er hyggur á heimsyfirráð, eins og hernaðarbrölt þeirra um allan heim sýnir ljóslega. Þess vegna berjumst við gegn báðum risaveldunum og fordæmum stríðsundirbúning þeirra. Kommúnistaflokkur Íslands hefur barist fyrir þessum markmiðum innan samtaka herstöðvaandstæðinga, enda eru þau samtök farin að taka upp baráttu gegn heimsvaldastefnu Sovétríkjanna í auknum mæli eins og mótmælin gegn hersetu rússa í Tékkóslóvakíu sýndu ljóslega 21. ágúst í fyrra.

Baráttan fyrir jafnrétti kvenna og karla er líka mikilvægt mál fyrir verkalýðsstéttina. Hin tvöfalda kúgun er verkakonan býr við í dag, arðrán á vinnumarkaðnum og fjötur við heimilisstörfin er afleiðing af efnahagsskipulagi auðvaldsframleiðslunnar. Raunverulegt jafnrétti kvenna mun ekki komast á nema verkalýðsstéttin geti sameinast til baráttu fyrir afnámi þessa auðvaldsskipulags er við búum við. Það er fyrst þá þegar verkafólk er orðið sinn eigin húsbóndi yfir atvinnutækjunum og gervöllu þjóðfélaginu sem við öðlumst raunverulegt jafnrétti og frelsi.

Kommúnistaflokkur Íslands mun halda baráttufund í Þjóðleikhúskjallaranum, ég vil hvetja allt baráttufólk til að leggja leið sína þangað og sýna þannig stuðning við hann og þau baráttumál sem við berjumst fyrir.

Félagar.

Að lokum vil ég hvetja ykkur til baráttu gegn stéttasamvinnunni er sundrar stétt okkar og fyrir kröfunni um lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku.

-bsk-

## 1. maí í Lundi

Hér í Lundi var þátttaka Íslendinga í 1. maí aðgerðum með mesta móti í ár. Stofnuð var 1. maí nefnd meðal Íslendinga og starfaði hún með "Verkalýðseiningu 1. maí 1978" en þær aðgerðir voru studdar af Kommúnistaflokki Svíþjóðar. Helstu vígorð sem borin voru í íslensku deildinni voru þessi: Ísland úr NATO-herinn burt, verndum sjálfsákvörðunarréttinn, gegn kreppupólitík íslenska auðvaldsins og stuðningur við frelsisbaráttu alþýðu Færeyja og Grænlands. Tæplega 50 Íslendingar tóku þátt í þessum aðgerðum, en það verður að teljast mjög gott.

Síðar um daginn hélt Kommúnistaflokkur Svíþjóðar skemmtifund þar sem félagi Kristján Guðlaugsson flutti íslenska baráttusöngva við ágætar undirtektir.

Þá stóðu herstöðvaandstæðingar hér í Lundi fyrir fjölmennum fundi, sem haldinn var strax að loknum kröfugöngum dagsins. Hátt á 100 manns sóttu fundinn, en þar flutti Cecil Haraldsson ræðu og Kristján Guðlaugsson skemmti með söng. Fundarstjóri var Valþór Hlöðversson. Fundarmenn gerðu góðan róm að fundinum og þótti göngumóðum gott að setjast niður yfir kaffi og meðlæti og renna huganum til baráttunnar heima á Fróni.

Fréttaritari í Lundi.

# Jón eða séra Jón

"Verkalýðsblaðið" sem út kom á 1. maí hafði að geyma árásir á Kommúnistaflokkinn og félaga hans að venju. Var þar um að ræða slúður og er það víst engin ný frétt fyrir þá sem lesa það blað, því það er aðalaðferð EIKml í svokallaðri pólitískri baráttu þeirra fyrir sameiningu verkafólks í einn sterkan flokk marxista-lenínista. Benedikt Kristjánsson og Sigurður Jón Ólafsson sem eru verkamenn í Dagsbrún er staðið hafa framarlega í baráttunni gegn stéttasamvinnuforystunni þar, verða nú fyrir barðinu. Á 7. síðu er þeim gert það upp að hafa skrifað hrósgrein um Guðmund J. Guðmundsson varaformann Dagsbrúnar og þær aðgerðir sem hann er leiðandi fyrir nú s.s. útflutningsbannið. Stéttabaráttan er alls ekki sammála um að hér hafi verið hrós á ferðinni, heldur fjallar greinin um útflutningsbann sem baráttuaðferð. Til að geta gert þetta mál að ágreiningsefni, þurfti málgagn EIKml að falsa fyrirsögnina. Fyrirsögn umræddrar greinar var "Útflutningsbann er öflug aðgerð" en Verkalýðsblaðið breytti henni í "Útflutningsbannið er öflug aðgerð". Tilgangur þessarar fölsunar er að gera þeim sem skrifaði greinina upp þá skoðun að hann væri ánægður með framkvæmd útflutningsbannsins. Er þetta að sjálfsögðu gróf rangfærsla og fölsun.

Greinin var skrifuð er útflutningsbannið var sett á og áður en nokkur undanþága var gefin. Hún er úttekt, eins og að framan greinir, á útflutningsbanni yfirleitt sem baráttu aðferð verkalýðsins og eru þar bæði raktir kostir þess og gallar. Ennfremur fjallar hún um undanslátt verkalýðforingja sem settu sig upp á móti banninu og vildu í staðinn allsherjarverkfall.

Hitt er svo að varla voru aðgerðir Verkamannasambandsins hafnar er forysta þess gaf undanþágur frá banninu.

Enda skrifaði lesandi er nefndi sig "Glaðvakandi" um það í næsta tbl. Stéttabaráttunnar og þar þótti honum útflutningsbannið vera léleg aðgerð. Því alls ekki er sama hvernig að því er staðið. Um það var greinarhöfundur umræddrar greinar alveg sammála og var þá þegar búinn að skrifa grein sem birtist í sama blaði og hét "Undansláttur og eftirgjafir verkalýðsforystunnar" og fjallaði um framkvæmdina á aðgerðum forystumanna Verkamannasambandsins. Ef Verkalýðsblaðið hefði haft áhuga á að gagnrýna afstöðu Kommúnistaflokksins til framkvæmdar á aðgerðinni hefði það átt að taka þá grein fyrir (bæði þessi tbl. voru löngu komin út er 1. maí blað EIKml kom út).

En það var greinilega ekki sannleikurinn sem sóst var eftir, heldur það að fá átyllu til að skerpa klofninginn í "vinstri"hreyfingunni með einni gróusögunni í viðbót.

Hvorki Benedikt eða Sigurður skrifuðu greinina "Útflutningsbann er öflug aðgerð" eða hafa yfirleitt haft tíma vegna vinnu að skrifa um útflutningsbannið. En Verkalýðsblaðið leitar ekki eftir sannleikanum þrátt fyrir að þau segi að svo sé í grein um Albert Guðmundson, sem skoða á sem sjálfsgagnrýni í sama blaði.

Stéttabaráttan skorar á EIKml og þá sérstaklega þá félaga þar sem hafa snefil af sómatilfinningu að birta í blaði sínu ofanritaðar línur auk þeirra úrklippa sem fylgja þessari grein en þær eru teknar úr 8. tbl. Verkalýðsblaðsins.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

## Óhæf myndbirting

Sleggjudómar, óundirbyggðar eða rangar staðhæfingar og skortur á hlutlægni eiga ekki að sjást í kommúnísku verkalýðsblaði. Samtökin og Vbl. hafa áður gert sig sek um mistök sem þessi – er sjást í nær hverju tbl. Þjóðviljans og smáblaðanna Neisa og Stéttabaráttunnar. EIK(m-l) og Vbl. ber skylda til að láta borgaraleg og tækifærissinnuð öfl ein um fánýtt hnútukast. Myndin og textinn komust í blaðið fyrir mistök í ritnefnd. Skortur á eftirliti og heildarafstöðu til framsetningar efnis í blaðinu eiga hér hlut að máli.

EIK(m-l) og Vbl. biðja velunnara sína og lesendur blaðsins velvirðingar á mistökunum. EIK(m-l) telja Albert Guðmundsson ekki fasista, né heldur að hann sé málsvari hans á þingi nú.

Ástæðurnar fyrir þessum viðbrögðum eru eingöngu þær, að baráttuaðferðir á borð við þessar og skrif standa öndverð baráttuaðferðum og hugmyndafræði verkalýðs og kommúnista.

## "KFÍ/ml" að baki Gvendi

"Útflutningsbannið er öflug aðgerð"!, segir Stéttabaráttan, málgagn "KFI/ML" í 16.tbl. Þar skrifa samferðamenn Guðmundar J. og Dagsbrúnarforystunnar á þing Verkamannasambandsins í fyrra, Benedikt Kristjánsson og Sigurður Jón Ólafsson, um skrípaleik þann sem ASÍ-forystan kallar "útflutningsbann" og mega vart vatni halda af hrifningu yfir "öflugum aðgerðum"! Ekki lætur Stéttabaráttan slæðst inn í leiðarann hér og hvar.

Innan Alþýðubandalagsforystunnar í Reykjavík heyrast sífellt magnaðri raddir um að "útflutningsbannið sé ekki alveg nógu sannfærandi aðgerð" og sé ekki beint vel fallið til að afla flokknum fylgis í kosningunum í vor. Þá á að "negla" Guðmund J. og kenna honum um allt saman og reyna að útvega einhvern happadrýgri stéttasamvinnupáfa. Fyrstu daga "útflutningsbannsins" hampaði Þjóðviljinn Guðmundi J. á annari hverri síðu, en upp á síðkastið sést honum minna hampað. Endalokin gætu orðið þau að Stéttabaráttan sæti ein uppi með að hylla Guðmund J. Það væri svo sem verðugur kross á leiði "KFI/ML".

Já það er ekki sama hvort það eru verkamenn sem berjast gegn auðvaldinu er eiga í hlut eða pólitískur fulltrúi og auðmaður úr Sjálfstæðisflokknum. Ef Verkalýðsblaðið neitar að birta þetta til leiðréttingar á meðal lesenda sinna, verður það aðeins baráttunni gegn auðvaldinu til skaða og þeim verkamönnum sem hana heyja. Það má að lokum geta þess að Stéttabaráttan hefur alltaf birt athugasemdir frá félögum EIKml sem talið hafa að hallað hafi verið á þeirra hlut í blaðinu.

# *Til félaga Ermiasar í Eritreu*

Félagi Ermías, , félagi sæll
ég færi þér kveðjur að norðan.
Félagi Ermías,, félagi sæll
ég færi þér hugheilar kveðjur að norðan.

Gegn erlendu valdi og ofbeldisræði
af alhug þið berjist, gegn morðum og æði.
Af fjandmönnum vinnið þið svæði eftir svæði
sækið á brattann, gegn hatri og bræði.
Þú þjóð þína elskar og eggjar til dáða
æskuna brýnir og hughreystir smáða.
Með frelsið sem markmið og friðinn í huga
þín fegursta óskin er þjóð þinni að duga.

Já, fagurt er verk þitt, þú félagi og vinur
og fjandinn er sterkur sem yfir þig dynur.
En eþjópískt einræði undan þér stynur
og innrás frá Kúbu um sjálfa sig hrynur.
Sú smáþjóð sem berst fyrir lífi og landi
launsátrum öllum hún verður að grandi.
Þú sigra munt sovéska heimsvaldaseggi
þótt sjúkir af gróðafýsn sjálfa sig eggi.

Á Íslandi þekkjum við óvini þína:
auðherra, kúgara, borgara "fína".
Útlenskur her treður móðurjörð mína
og Moskvuliðs ógnir um höfuð mér hvína.
Berðu því bróðir til félaga þinna
baráttu-og kveðjuorð landsmanna minna.
Við hlið þína stöndum og stuðning þér sýnum
og staðfestu lærum af afrekum þínum.

Félagi Ermías, félagi sæll
ég færi þér kveðjur að norðan.
Félagi Ermías, félagi sæll
ég færi þér hugheilar kveðjur að norðan.

Höfundur: Guðmundur Sæmundsson.

# Frelsisbarátta Eritreu

Framhald af forsíðu

Bandaríkjastjórn í Eþíópíu og napalmi og eldflaugum til að halda Eritreu undir Eþíópíu. Reyndar afhjúpast heimsvaldaeðli Sovétríkjanna mjög vel í þessu máli. Í fyrstu studdu þau frelsishreyfingu Eritreu og veittu skæruliðasamtökunum hernaðarlega ráðgjöf. Það var á sama hátt og þeir studdu allar frelsishreyfingar í Angóla. En varla voru Portúgölsku hermennirnir stignir á skipsfjöl, er borgarastríð hófst í Angóla og ein frelsishreyfingin MPLA náði þar völdum eftir blóðuga styrjöld með ómældri

Með þessari aðstoð gafst Sovétríkjunum tækifæri til að efla áhrif sín í þessum hluta Afríku.

En ef nokkur heiðarlegur and-heimsvaldasinni hefur verið í vafa um tilgang ríkjanna með aðstoð sinni í Afríku, þá ætti honum að vera það ljóst eftir kúvendingu þeirra í Norðvestur-Afríku. Þegar Hailes Selassís var steypt af stóli losnaði um tök Bandaríkjanna á Eþíópíu. Þetta notfærðu Sovétríkin sér til að koma ár sinni vel fyrir borð í Eþíópíu. Sómalía og Eritrea voru látin sigla sinn sjó. Ekki vegna þess að grundvöllur baráttu þeirra hefði breyst heldur sáu Sovétríkin fram á sterkari ítök á þessu landssvæði með því að söðla yfir. Nú berjast 3ooo. kúbanir gegn Eritreumönnum, þeir sömu og studdu þá í frelsisstríðinu, og sovésk herskip leggja hafnarborgir í rúst. Árni Bergman kallar þessa kúvendingu Sovétmanna hentistefnu, í grein er hann reit í Þjóðviljann þann 7/5 78. Þannig reynir hann af veikum mætti að dylja það sem raunverulega er að gerast í Norðvestur-Afríku. Þá staðreynd að þarna kemur heimsvaldaeðli Sovétríkjanna skýrt í ljós. Þá staðreynd að þarna kemur heimsvaldaeðli Sovéskra valdhafa vel í ljós.

STYÐJUM FRELSISBARÁTTU ERÍTREU

GEGN SÓSÍALHEIMSVALDASTEFNU SOVÉTRÍKJANNA

Frh. af forsíðu

ER OLÍUBANNIÐ ÖFLUG AÐGERÐ?

andi fólks. Verkalýðsforysta sem þjónar hagsmunum tveggja stétta og þá aðallega atvinnurekendum verður aldrei fær um að koma á átta stunda vinnudegi, sem borgaður er með mannsæmandi launum.

Frh. af baksíðu

ALBERT GUÐMUNDSSON OG ALÞÝÐAN

átti að banna verkföll og kjarabaráttu alþýðufólks. Það vinnandi fólk sem styður slíka menn eins og forysta íhaldsins er sér ekki hvað eru þeirra hagsmunir og hverjir eru hagsmunir auðmanna. Hverjir eru ábyrgir fyrir því að harðduglegt alþýðufólk er í fjárhagsvandræðum? Því ætti hver einasti vinnandi maður að geta svarað rétt.

Frh. af baksíðu

FÁEIN ORÐ UM FRÉTTAFLUTTNING.

a.m.k. í ríkisfjölmiðlunum sé skýrt heiðarlega og af sanngirni frá þýðingarmiklum aðgerðum þess, þó svo flokkspólitískublöðin þingflokkanna þjóni aðeins fáum mönnum og flytji fregnir samkvæmt því.

## *Ávarp Sigurðar Jóns Ólafssonar:*

Framhald af síðu 3

þess, að unnt verði að breyta verkalýðsfélögunum í raunveruleg baráttutæki. Á þetta benti Jón Rafnsson í bók sinni Vor í verum, en hún greinir frá verklýðsbaráttunni á þriðja og fjórða áratugnum. Þar segir meðal annars að kommúnistar og einingarsinnar í verkalýðshreyfingunni leggi "ríka áherslu á félagslegt starf meðal verkafólks, hvar sem það er að hitta. Hvern vinnustað, þar sem fleiri eða færri menn eru saman komnir skoða þeir sem vettvang starfsemi sinnar, - og vinnustöðva starfið er eitt grundvallaratriðið í baráttunni fyrir stéttareiningu verkalýðsins um hagsmunamálin, án tillits til stjórnmálaskoðana."

Það var á þennan hátt sem tókst að gera verkalýðsfélögin að baráttutækjum hér fyrr á árum, og það er einmitt á þennan hátt, sem við verðum að starfa ef okkur á að takast að endurreisa verkalýðsfélögin sem baráttutæki.

LIFI SAMFYLKING VERKALÝÐSINS Á GRUNDVELLI STÉTTABARÁTTUNNAR.

FRÁ STYKKISHÓLMI:

Framhald af síðu 2

leið rúmur mánuður áður en vinna hófst aftur og máttu þær hafa það að bíða eftir því að atvinnurekandanum þóknaðist að kalla á þær. Þetta sýnir okkur ljóslega við hvaða atvinnuöryggi verkakonur mega sitja. Nákvæmlega sami hluturinn er að endurtaka sig núna. Í byrjun maí var öllum konum sagt upp hjá einu fyrirtæki, eins og að ofan greinir. Fleiri fyrirtæki eiga eftir að sigla í kjölfarið.
Þetta dæmi ásamt fjölda mörgum öðrum sem rétt væri að segja frá sýnir okkur að svokölluð kauptrygging fólks í frystihúsum er einskis nýt þegar á reynir.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

**Stéttabaráttan**

Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
STÉTTABARÁTTAN 9.5. 1978

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



# Um lýðræðisást verkalýðsforystunnar

Á 1. maí baráttudegi verkalýðsstéttarinnar um allan heim, hafði sjónvarpið viðtal við nokkra verkalýðsforingja og atvinnurekendur. Mörg spekin opinberaðist þar, en þó var sumt athyglisverðara en annað. Formaður verslunarmannafélagsins Björn Þórhallsson sagði að það sem honum þætti bestur árangur af baráttu verkalýðsins væri að verkafólk væri efnalega sjálfstætt. Það er nú það. Ekki er enn vitað til þess hér á okkar grjóthólma að verkafólk stjórni atvinnufyrirtækjunum og hirði arðinn af vinnu sinni. En það er ekki von til þess að verkalýðsforingi úr Sjálfstæðisflokknum skilji það svo maður tali ekki um þegar þeir eru sjálfir atvinnurekendur hjá Verslunarráði Íslands. Ja, sumir hafa komið ár sinni vel fyrir borð, einmitt vegna þess að fjöldinn sem á engin atvinnutæki treysti þeim Það er nú kominn tími til þess að verkafólk fari að gefa slíkum mönnum sparkið. En þó tók nú yfir allan þjófabálk þegar Barði Friðriksson einn af forhertustu samningamönnum atvinnurekenda hrósaði verkalýðsforystunni fyrir það m.a. að hafa komið á vinnuhvetjandi launakerfum, atvinnurekendum til stórra hagsbóta. Formaður verkakvennafélagsins í Hafnarfirði tók í sama streng og sagði kosti bónusvinnunnar vera þá að verkakonurnar gætu unnið eins hratt og þær vildu. Allar konur sem vinna í bónus í frystihúsum eru sammála um að það kerfi er keyri á þær og atvinnurekandinn græðir miklu meira á bónusnum en þær. En það er ekki von til þess að uppkeyptur verkalýðsforingi, er ekki hefur unnið ærlega vinnu í áratugi skilji þennan einfalda sannleika sem bónusinn er.

En þó duttu nú allar dauðar lýs úr höfði mér þegar þeir félagar Eðvarð Sigurðsson og Guðmundur J. létu ljós sitt skína í þessum makalausa sjónvarpsþætti á 1. maí.

Afstaða Guðmundar J. til vandamála verkalýðshreyfingarinnar var sú, að verkalýðshreyfingin væri ekki nægjanlega lýðræðisleg, félagsfundir fáir og sömuleiðis fundir forystumanna með verkamönnum á vinnustöðum. Vald og starfsvilji verkafólksins væri ekki

Framhald á síðu 2

# Albert Guðmundsson og alþýðan

Heildsalinn Albert Guðmundsson varð efstur í prófkjöri íhaldsins eins og flestir muna sjálfsagt. Margir alþýðumenn greiddu honum atkvæði sín, og bera sumir við að þarna sé maður alþýðunnar á ferð. Hann skrifi upp á víxla fyrir alþýðufólk sem er í stökustu fjárhagsvandræðum og hjálpi því á allan hátt. Þetta blessaða fólk athugar ekki að þessi einskæra góðmennska hans er lýðskrumið eitt. Á sama tíma og Albert gefur sig út fyrir það að hjálpa alþýðumanninum og alþýðukonunni sem á undir högg að sækja, stendur hann fyrir því að samþykkt eru lög á Alþingi sem leyfa kaupmönnum að koma á frjálsri álagningu, líklega af einskærri ást á hagsmunum verkafólks. Skattalögin sem Albert þessi einskæri alþýðuvinur styður munu valda þungum búsifjum hjá alþýðunni, en braskararnir eins og Albert munu sleppa áfram, enda er þetta þjóðfélag þar sem þeir ráða auðnum. Og þessi öðlingur framkvæmdi það sem hinir auðmennirnir hugsa, hann kom fram með frumvarp á Alþingi þar sem

frh. á síðu 5



Albert Guðmundsson vill láta banna verkföll hérlendis eins og í fasistaríkjunum.

# Fáein orð um fréttaflutning

Margir þeir sem ekki hafa áður orðið varir við lágkúrulegan fréttaflutning ríkisfjölmiðlanna og dagblaðanna á Íslandi, komust ekki hjá því að sjá hvernig þeim málum er háttað, eftir það hvernig skýrt var frá aðgerðum 1. maí.

Útvarpið skýrði eingöngu frá aðgerðum ASÍ-forystunnar en nefndi ekki einu orði hinar fjölmennu sameiginlegu aðgerðir Baráttueiningar og Rauðrar verkalýðseiningar né aðgerðir þær sem EIKml gengust fyrir.

Sjónvarpið gerði þessum málum skárri skil, en það tók kvikmynd af aðgerðum ASÍ-forystunnar og gerði þeim nokkur skil í fréttaflutningi sínum. Loks skýrði það stuttlega frá Baráttueiningu og Rauðri verkalýðseiningu en nefndi ekki aðgerðir EIKml sem báru heitið Samfylking.

Sama er að segja um málgögn borgaraflokkanna og borgaralegu flokkanna, Morgunblaðið, Þjóðviljann, Vísi, Tímann, Alþýðublaðið og Dagblaðið, þau gerðu allt sem í þeirra valdi stóð til að þegja aðgerðirnar í hel.

Slík sorpfréttamennska þjónar aðeins þröngum eiginhagsmunasjónarmiðum flokkseigendaklíkna Sjálfstæðisflokksins, Alþýðubandalagsins, Alþýðuflokksins og Framsóknarflokksins, sem allir eiga það sameiginlegt að fórna hagsmunum verkalýðsins fyrir sína eigin.

Verkafólk á kröfu á því að

Framhald á síðu 5

# Frelsisbarátta Eritreu



Um mánaðarmótin apríl maí, heimsótti Ísland, ungur maður Berhanú Kifle. Hann er ritari samtakanna Eritrean Democratic Youth Union, sem eru samtök ungra Eritreu manna á Norðurlöndum. Til landsins kom hann í boði Eik m-l og Verkalýðsblaðsins til að kynna þá frelsisbaráttu sem þjóð hans á í við fasíska stjórn Eþíópíu, sem dyggilega er studd af kúbönskum og rússum. Berhanú Kifle talaði á fundum Samfylkingar 1. maí bæði á úti og inni fundi. Ennfremur hafði hann viðtal við fjölmiðla, útvarp, sjónvarp og blöð. Nokkuð voru misjafnar móttökur sem hann fékk, og lét fulltrúi sjónvarpsins til dæmis ekki mikið yfir því að þetta væri áhuga vekjandi, sem er nokkuð furðuleg afstaða, þar sem þessi styrjöld hefur verið mikið í sjónvarpsfréttum. Þeim lætur víst betur að meðtaka fréttir frá þeim aðiljum er túlka afstöðu þeirra heimsvaldasinna er halda vilja áhrifum sínum í Afríku. Þeirra sömu fréttastofnana er túlkuðu landhelgisstríðið svo frábærlega hér á árunum. Fimmtudaginn fjórða maí var svo haldinn kynningarfundur um Erítreu á vegum sömu aðilja, og hélt þar Berhanú Kifle ræðu og svaraði fyrir spurnum, þrátt fyrir að fundurinn hafi verið fámennur komu fram margar fyrirspurnir. Hvað fámenni snertir þá var það einna helsti ljóðurinn á þessari heimsókn. Það er sérlega slæmt, þar sem allar horfur eru á að það hafi verið óþarfi. Frelsisbarátta Eritrea nýtur almennrar samúðar. Til dæmis var stuðningur við þessa baráttu tekin upp hjá öðrum og stærri aðgerðum á 1. maí, það er í aðgerðum Baráttueiningar og Rauðrar verkalýðseiningar. Ef Eik m-l hefði borið hagsmuni Eritreu fyrir brjósti, þá hefðu þeir ekki staðið að svo einangruðum aðgerðum að einungis fáir útvaldir fengu tækifæri til að hlýða á.

Við skulum nú rekja nokkur atriði er varpa ljósi á það sem er að gerast í N.-vesturur - Afríku. Fyrst skulum við gera okkur grein fyrir nokkrum staðreyndum varðandi Eritreu. Eritrea er að flatarmáli heldur stærri en Ísland. Flatlendi til sjávar og fjöllótt til lands. Íbúar eru um fjórar miljónir og flestir bændur. Landsmenn skiptast til helminga milli kristinnar trúar (koptísku, einhverjar elstu lifandi kristni í heiminum) og Múhameðstrúar. Trúabrögðin voru eitt af því sem nýlendukúgararnir reyndu að notfæra sér til að sundra þjóðinni. Alþekkt ráð nýlendukúgara.

Eritreu búum er nýlendukúgun ekki nein ný bóla. Tyrkir hertóku landið á 16. öld, en misstu það á 19. öld. Egyptar og Ítalir skiptust á yfirráðum, en bretar hertóku landið 1941. Þeir settu herstjórn sína til valda og sat hún til 1952 er landið var falið í umsj... ...ameinuðu Þjóðanna. Band... ...in sem mestu réðu um m... ...ni Sþ á þessum árum, og n... S.Þ. til að dylja það s... þeim fannst nauðsynleg... ...rðandi málefni 3ja. heimsi... Alþekkt dæmi frá þessum tíma er hvernig Bandaríkin beittu S.Þ. er þeir hófu innrás í Kóreu. Þá var S.Þ. beitt og látið heita að bandaríska innrásarliðið væri að framkvæma ályktanir S.Þ. Þessi ályktun var barin í gegn þegar Sovétríkin voru ekki til staðar til að beita neitunarvaldi sínu og stöðva skrípaleikinn.

Á svipaðan hátt var Eritrea neydd til að ganga í ríkjabandalag með Eþíópíu. Bandaríkin höfðu þá töglin og hagldirnar í Eþíópíu og vildu auka áhrif sín á þessu landssvæði, sem öðrum. 1962 var svo Eritrea innlimuð sem fylki í Eþíópíu. Aldrei voru íbúar Eritreu spurðir álits og öll andstaða þeirra barin niður með hörku.

Haustið 1961 hófu Eritreumenn skæruhernað gegn Eþíópíustjórn, og hefur baráttan staðið látlaust síðan. Tvær frelsishreyfingar spruttu upp á sama tíma ELF og EPLF. Gekk á ýmsu með samstarf milli þeirra framan af, en í mars í ár náðist samkomulag um sameiningu þessara tveggja fylkinga. Þær hafa nú á valdi sínu nær alla Eritreu, utan höfuðborgina Asmara og tvær hafnarborgir Massava og Assab, sem eru á valdi sovésku, kúbönsku og Eþíópísku herjanna. Það kemur mörgum sem fylgst hafa með gangi heimsmála undanfarna áratugi undarlega fyrir sjónir hve Sovétríkin hafa gjörsamlega skipt um hlutverk, 1952 eru Sovétríkin einlægur stuðningsaðilji við frelsisbaráttu kúgaðra þjóða, Nú hafa þau tekið við af

Framhald á síðu 5



Sovéskur skriðdreki sem frelsissveitir Erítreu tóku herfangi.